# VEITSLUVÍSA

í KAUPMANNAHÖFN

þann XXIIIða í þorra, MDCCCXXXVII.





*Lag:* Hvor Fader Evan throner Glæden smiler.

---

Þar vex eitt trè í víðum Suðurheimi
Er vermist Drottins hírri sól,
Og þroskast ekki þó í villigeymi
Enn þekkist frjóf og ræktuð ból,
:|: Og geislarnir sunnu því gáfu þá saft
Er gjæðanna himneskra frammreiðir krapt. :|:

Hvör einn mun sá, er veittist vín að smakka,
Ei vita nú, að meint það er!
Þá mest á dynur mótgángs hríðinn blakka
Og mæddur skjól á jörð ei sèr,
:|: Ef þrúgunnar blikar í bikarnum sól
Þá breytast mun sorginn í gleðinnar jól. :|:

Sá armóð vafinn lífs um klúngra-leiðir
Ei lukku neinar heillir fann,
Ei annað þak sèr á, enn það sem breiðir
Sá alheim skóp á veraldar rann, —
:|: Hann verður, nær inn tekur víndropa safn
I vildastri kjæti þeim ríkustu jafn. :|:

Nær fjenda-hópar flykkjast mann í kríngum
Og freka hjóða deilu raun,
Enn baknags snákar brodda-túngum slíngum
Hans beita mannorð gott á laun, —
:|: Þá fagurraudt þrúgnanna færa skal blóð
Mót fjendum og rógberum styrkleik og móð. :|:

Að feingum vèr í frosnum Norðurheimi
Þig fagra vín! er lukka góð;
Þú skalt oss kjærri kjældum hrannar eimi
Hann kann ei gleðja hryggva þjóð;
:|: Þú kjætir og bætir og magnar oss mest,
Þig málið skal prísa og sinnið vort hrest. :|:

Þó helst, nær oss þín hýra saman laðar,
Vèr heilsum glaðir fornum vin,
Sem, fæddur út við Fróns hinn kalda jaðar,
Með frægð og dygð vort heiðrar kyn;
:|: Svo Jónssyni fagnar nú Grími vort gèð,
Æ gjæfann hann faðmi og ánægjann með! :|:

*Finnur Magnússon.*

---

Prentað hjá S. L. Möller.